# Dagsbrún.

Mánaðarrit
til stuðnings frjálsri trúarskoðun.

III. | GIMLI, MAN., JANÚAR 1895. | 1.

## Lýðhvöt.

Upp, upp með deginum andans menn
árvakrir tímans synir,
sýnum að vakandi séum vér enn
og sjáandi ljóssins vinir;
sé fornaldar hreystin að fávisku gerð
til frægðar oss stríðum með penna en ei sverð,
og vinnum ei ver þó en hinir.

Fram, fram með tímanum frjálslynd þjóð,
flokkur vor þróist og dafni;
berjum á hræsninni í hetju móð
herjum með ljós guð í stafni;
og ráðumst á hjátrú og vondsku vald
og vítis-glóð og afturhald
og sigrum í sannleikans nafni.

Á þjóðtrúar-himninum sést þó um síð
sannleikans dagröðuls skýma;
*Dagsbrúnin* boðar oss bjartari tíð,
boðar oss nýja tíma.
Lifi frelsi og menning og frami og dáð,
fylkjum oss—hrekjum með alföðurs náð
draugana burt, er í húminu hýma.

(S. B. Benedictsson.)

# TRÚIN Á GUÐ.

EFTIR M. J. SAVAGE.

-:o:-

## VII. EIGUM VÉR AÐ BIÐJA GUÐ?

(Framh.)

Vér stöndum í hinu sama sambandi við hinn í öllu verandi guð, sem gullmyntin stendr í sambandi við mótið, sem myndaði hana og réði lögun hennar. Mannleg náttúra hefir skapast af hlutunum í kringum manninn, og hlýtr að svara til þeirra eins og augað svarar til ljóssins, sem smátt og smátt skóp það. Að segja að þessi náttúruhvöt, bænin, hafi ekkert að þýða og bendi ekki á neitt, virðist mér vera jafn óskynsamlegt, eins og að segja að snúningr kompás-nálarinnar hefði enga þýðingu, af þeirri ástæðu, að vér getum ekki lokað inni í kassa þetta magnetiska afl, sem snýr henni að heimskautunum. En hvað hefir þá þessi náttúruhvöt að þýða? Vér höfum séð, að hún getr ekki haft þá þýðingu, sem alþýða og klerkar hafa viljað láta hana hafa. En hvað er þá eftir? Vér skulum vita hvort vér getum ekki rent hér lóði því, er nær að botni.

Alt líf hungrar og þráir. Það keppir, eins og blómið leitar ljóssins, eftir því sem það getr lifað á, og vaxið fyrir. Alt eðli mansins frá hinni lægstu dýrslegu hvöt til hinna andlegu og siðferðislegu hvata, og upp hærra til hinna æðstu andlegu hvata, er leita guðs og sannleikans, er — ein stórkostleg bæn. Lífið hungrar, það þráir, það réttir út sína biðjandi hönd til uppsprettu allrar fæðu. Líkaminn biðr, sálin biðr. Þráin eftir sannleikanum, þráin eftir fegrðinni, þráin eftir farsældinni, þráin eftir hinu góða, þráin eftir kærleikanum, alt eru þetta opnar höndur og biðjandi varir. Það er ekki orðaleikr þetta, því að alt eðli vort biðr alheiminn æskir einhvers af alheiminum, af guði umhverfis oss. Og ef að vér biðjum réttilega, þá fáum vér bænheyrslu. Þetta er hið dýpsta og innsta eðli bænarinnar, hvort sem nokkurt orð er talað, eðr ekki. Vér erum á hverju augnabliki, á hverjum degi að biðja guð um eitt og annað með öllum kröftum hinn-

ar lifandi, starfandi veru vorrar. Hver ein löngun, hver ein tilraun til að öðlast eitthvað er sannarleg bæn. Ef að vér biðjum með vörum vorum þá gjörum vér ekki annað, en að lýsa með orðum, því sem til var í huga vorum, áðr en það var talað.

En nú eru margar bænir vorar ekki uppfyltar, þótt sumar séu það. Hvað er þá skilyrðið fyrir því, að bænir vorar verði veittar? Skilyrði þetta er ofr einfalt, svo einfalt, að það er furða mesta, að menn skuli leita að því dunum og dynkjum og finna það þó ekki. Til þess að gjöra þetta ljóst verð ég að endrtaka og biðja yðr vandlega að muna það, sem ég þegar hefi sagt, að lögmál og öfl náttúrunnar alt í kring um oss og í oss sjálfum, í himninum yfir höfðum vorum og á jörðunni undir fótum vorum, að þessi lögmál eðr þessi öfl eru hin sísláandi og svellandi lífæð og nœrvera sjálf guðs. Ef að vér því viljum, að þessi guð heyri og uppfylli bænir vorar, þá verðum vér að biðja hann, að gefa oss það, sem vér þörfnumst samkvœmt þessum lögum, hverrar tegundar, sem bæn vor kann að vera. Setjum svo að vér viljum rækta kálhöfuð í garði vorum. Þá er guð sjálfr nærverandi hinn lifandi verkandi í jarðveginum og sólskyninu, í regninu og dögginni og hann segir oss, að vér skulum biðja réttilega og þá muni hann svara. En hann lætr aldrei kálhöfuðin vaxa á steinum, eðr rigna niðr úr skýjunum; og hann lætr þau ekki heldr vaxa fyrir beiðnina eintóma. Að óska þess, að hann gjöri það er að óvirða hann með því, að biðja hann að breyta lögum sínum eftir því, sem oss kann að koma til hugar. En nú kunna menn að segja: Þetta er ekki nein gjöf frá guði, heldr ert þú sjálfr að rækta kálhöfuð. En hvers er þá jarðvegrinn og loftið og sólin og regnið? Ef að þú tækir í burtu hinn verkandi kraft guðs í öllu þessu, hvað gætir þú þá gjört? Setjum svo, að þú værir einhversstaðar í húsi inni og værir mjög þjáðr af þorsta þú biðr um vatn. Vinr þinn stingr upp á því, að þú snúir vatnskrananum* og hjálpir þér sjálfr. En útilokar þetta nú guð frá því að hjálpa þér? Vissulega ræðr hann náttúrulögunum, sem vatnið er leitt eftir inn í húsið. Það er til gamalt máltæki, sem segir: „Bóndin skal biðja, en biðja með hendina á plógnum“. Höndin á plógnum er hin réttasta og besta bænaraðferð; það er sú eina bæn, sem guð heyrir og uppfyllir.

---

* Í húsum borga er vatn leitt inn með pípum og þarf ekki annað en að snúa krana einum til að ná nógu vatni.

Hiðsama á sér stað frá hinu lægsta til hins æðsta. Berðu á dyrnar hjá náttúrunni og kallaðu út einn eðr annan vísindalegan sannleika. Ef þú berð réttilega á dyr þá þarftu ekki annað, en að hlusta og muntu svarið fá, þú munt öðlast þenna sannleika. Svo er og í siðferðislegu tilliti. Menn verða ekki góðir menn með því eingöngu að óska þess með vörunum, heldr með því að hlýða lögmáli kærleikans. Hvað segir ekki Jesús: „Sælir eru þeir, sem hungrar og þyrstir eftir réttlætinu því að þeir munu saddir verða". Í þessum skilningi er það satt, að „sá sem biðr mun öðlast, sá, sem leitar hann finnr hver sem á knýr, fyrir honum mun upplokið verða". Og í þessum skilningi er þrábeiðnin rétt, í því, nefnilega, að þreytast ekki, að leita að vegum guðs. En í vanalegum skilningi, eðr þeim, að biðja guð, þangað til hann verðr leiðr á bónastaglinu, er það eintóm vitleysa og endileysa.

Þegar upp kemr í hin æðri andlegu ríki, þá ræðr þar hið sama lögmál. Menn öðlast andlegar gáfur með því að leita uppi skilyrðin fyrir þeim og uppfylla þau.

Frá hinu lægsta til hins æðsta sjáum vér þannig, að svo framalega sem vér finnum lögmál bænarinnar og uppfyllum skilyrði hennar þá er hver ein einasta bæn æfinlega uppfylt, það skeikar aldrei, því það lögmál gildir um heim allan. Löngunin, þráin, hungrið, leitunin eftir hlutunum er bænarinnar fyrsta skref. Þegar menn finna til þessa hungurs, þessarar löngunar, þá fer hún, þessi löngun, að koma i ljós verkum, hvort sem það nú er á vörunum, í orðum, eða með verkun heilans, eðr handar, eðr fótar. En æfinlega er það, að bænin hlýtr að ganga á undan áðr, en menn öðlast eitthvað. Guð vill aldrei gefa mönnum neitt, hvorki brauð, eðr gull, eðr gæfu fyrir bænina eintóma, en ef að vér biðjum réttilega, þá veitir hann oss alt, sem vér þurfum.

Nú eru aðeins eftir fáeinar athugasemdir.

Fyrst er spurningin: Ef að það er nú satt, sem sagt er hér að framan, er þá bænin hin munnlega alveg ónýt? Öldungis ekki. Aðal atriði bænarinnar felst í löngunninni. En löngun þessi þarf að láta sig í ljósi á einn eðr annan hátt. Vér syngjum þegar vér erum glaðir, vér stynjum þegar vér erum sorgbitnir. Hví skyldum vér þá ekki biðja, þegar sálu vora hungrað eftir einu eða öðru? Og ég trúi því, að vér getum og eigum að biðja um alt það, sem vér þörfnumst, en vér verðum ætíð að muna það, að vér erum aðeins að úthella hjört-

um vorum fyrir hinum mikla alföðr, og að þessi bæn er ónóg ef að vér ekki um leið uppfyllum skilyrði hennar, lifum samkvæmt lögum náttúrunnar.

Og þó að bænin verði ekki uppfyllt, þá er þar með enganveginn sagt, að hún sé ónýt. Ég fer til vinar míns og segi honum frá vandræðum mínum og úthelli hjarta mínu fyrir honum. Það getr vel verið, að hann geti enga bót ráðið á þessum vandræðum. En það að vita, að hann tekr þátt í kjörum mínum, svo að ég er ekki einn um að bera þau, verðr mér til stórmikils hugarléttis. Eins er það, ef að ég kem með áhyggjur mínar fram fyrir guð og ef ég get haft þá tilfinningu, að honum sé ant um mig, að hann taki þátt í kjörum mínum, þá léttir það vissulega byrðinni á mér. Það er óendanlega mikill raunaléttir í þessari himnesku hluttekningu. — Þangað til að einhver getr með óskeikanlegum myndugleika fullvissað mig um það, að guði sé ekkert ant um mig, að hann hirði ekkert um mig, þangað til ætla ég að halda mér fast við þessa náttúruhvöt, bænina, þessa náttúruhvöt, sem vér sjáum alsstaðar um allan heim og ég ætla að trúa því, að hún sé ekki einskis verð heldr þvert á móti, að hún sé oss eðlileg, nauðsynleg, blessunarrík.

En nú er hið seinasta atriði bænarinnar eftir, það er hin opinbera bænagjörð. Það er þá fljótt um hana að segja, að mikill hluti af því, sem kallað er opinber bænagjörð er alveg óverjandi. Þegar menn eru að skipa guði fyrir, hvað hann skuli gjöra, þegar menn eru að biðja um eitthvað, sem skaðar aðra, þegar menn þykjast ætla að sigra eðr yfirbuga guð með bænum sínum. Hin náttúrlega bæn er það, þegar sálin flýr til guðs, sem í annað hæli með langanir sínar og óskir, með kvíða sinn og vonir Og, ef að vér sem menn eðr konur, höfum viðkvæm og tilfinningarík hjörtu, ef að vér elskum vini vora, ef að vér keppum eftir þeim hlutum, sem að eru fyrir ofan oss, ef að vér tökum þátt í kjörum annara, ef vér finnum hvernig „öll skepnan andvarpar og stynr eftir lausn“. Þá getum vér ekki byrgt þessa þreyju, þessa löngun, þessa hluttekningu inni í hjörtum vorum, og fyrst að varirnar eru strengir þeir, sem tilfinningar vorar leika á þá skulum vér einnig halda áfram að úthella lofgjörð og bænum vorum fyrir guði í orðum, háfleygum, hjartnæmum, barnslegum og elskulegum.

# Jólarœða

(Flutt í Winnipeg á jóladaginn, 1894, af ritstj. „Dbr.“)
(Lúk. 2. 1—15.)

---

Vér erum að minnast jólanna í dag kæru vinir, þessarar eldgömlu hátíðar, sem hefir upptök sín einhversstaðar lengst austr í Asíu löngu fyrir daga Krists, já löngu fyrir daga Gyðinga. Upphaflega var hátíð þessi haldin í minningu þess, að sólin fór aftr að hækka á himni, dagrinn fór að lengjast og norðrhvel jarðar naut meira og meira af þessum lífgeislum ljóssins. En það er ekki í minningu þess, sem vér nú höldum hátíð þessa heilaga, heldr í minningu þess, að á henni fæddist maðr sá, sem í trúarlegu tilliti hefir haft þau áhrif á hinn mentaða heim, að hann enn þá fylgir trú þeirri, sem hann boðaði og hefir sýnt elsku sína og hollustu til höfundar trúar þessarar með því, að hefja hann upp í guða tölu.

Það er jólakvöldið sem sagt er að hann hafi fæðst fyrir nærri 1900 árum, Jesús Kristr sonr Jóseps og Máríu, hinn besti og hreinasti *Unitari*, því sannarlega var það trúin á einn guð, U n i t a r a trú, sem hann boðaði.

Um fæðingu hans ganga og gengu ýmsar sögr, eins og æfinlega hefir verið um mikla menn. Englar áttu að boða fæðingu hans, vitringar komu úr fjarlægum löndum. Menn sóktust eftir lífi hans, en það er ekki um þær sögur, sem ég ætla að tala í kvöld; þær eru mikið til sömu sögurnar og sagðar voru um fæðingu Krishna 1200 árum áðr. Þessar sögur eru vanalega búnar til eftir á, þegar maðrinn er orðinn frægr og alþektr og líkjast vanalega hver annari. Ég ætlaði að tala um erfiðismanninn Krist, Unitarann Krist, um frelsis og siðgæðishetjuna Krist, um manninn Krist, um guðstrúarmanninn Krist, sem enn þá verkar í heiminum með hinu dygðuga lífi sínu og guðdómlegu kenningu.

Foreldrar hans voru fátækir og áttu fyrir þungri fjölskyldu að sjá. Það er getið um 4 bræðr hans: Jakob og Jó s og Símon og Júdas; systur átti hann og en ekki eru þær nefndar á nafn. Faðir hans var timbrmaðr og er hann því stundum kallaðr sonr timbrmannsins frá Nazareth.

Vér megum ekki hugsa oss hann þennan höfðingja klæddan pelli

og purpura, ekki með sveina til að þjóna sér, er væru reiðubúnir til að gjöra skipanir hans. Nei! Hann var fátækr, umkomulítill, þurfti að erfiða og vinna eins og vér. Hann hefir eflaust staðið við hefilbekkinn með hefilinn eða sögina, hann hefir unnið sig sveittan og þreyttan við að hjálpa föðr sínum, eðr hann hefir hlaupið út um hóla og hæðir að leika sér með öðrum drengjum. En óefað hefir snemma borið á sálurgáfum hans. Hugr hans hefir snúist til guðs, hann hefir haft ó egjanlega elsku til mannkynsins, hann hefir elskað alt það, sem var aumt og vesælt, hann hefir viljað líkna öllum aumum og bágstöddum. Og hann hefir sárlega fundið til ranglætisins, harðneskjunnar, lyginnar og hræsninnar í heiminum. Hann sá þjóð sína kúgaða af Rómverjum og honum hefir efalaust sárnað það mjög, hann sá prestana ganga fram með skinhelgi og hræsna og gabba lýðinn og ginna, og hann hefir fyllst gremju og reiði yfir tvöfeldni þeirra. Og ég segi yðr það satt, að væri hann kominn hér nú mundi sála hans fyllast gremju og reiði yfir athæfi klerka, sem ginna og tæla alþýðu og narra hana til að trúa ýmsu, sem þeir sjálfir ekki hafa minnstu trú á. Hann hefir séð, hvernig prestarnir notuðu trúna til að hafa vald yfir lýðnum og leiða hann til þess, sem þeir vildu. Hann hefir sannarlega ekki verið trúmaðr á þeirra vísu prestanna og oft hefir hann hugsað um þetta. Hann sá að alþýðan og alþýðumenn voru sauðir, sem teymdir voru af klerkum eins og þeir eru enn þann dag í dag. Alþýðan þá var trúgjörn, fáfróð, hugsaði um fátt annað en það, sem hafa þurfti til fæðu og klæða, einföld, niðrdrepin af kúguninni, það hefir eflaust hvarflað honum í huga hvort það væri nú þess vert, að leggja líf sitt í sölurnar fyrir þessa menn, þessar aumingja rolur, sem ekki höfðu vitið meira en svo, að þeir voru reiðubúnir að grýta þann, sem sagði þeim sannleikann; eins og menn eru enn þann dag í dag. Því það er satt, þó undarlegt sé, að menn eru alment fúsari að trúa lyginni, en sannleikanum.

Hann hefir vafalaust séð fyrir alla baráttuna, séð fyrir vanþakklæti og tortryggni lýðsins, en hitt hefir ráðið meiru mannkærleiki hans og meðaumkun. Hann sá, að hann varð einn og óstuddr að leggja út í þetta stríð, hann var ekki neinn höfðingjason og hafði því ekki háa tign eða virðingu manna að styðja sig við, hann var fátækr og vantaði því auðinn, sem vanalega er afl þeirra hluta, sem gjöra skal; hann hafði enga mentun, hafði ekki gengið á neinn skóla, svo að ekki létti

það fyrir honum. Hann hafði ekkert annað við að styðjast, en sannleikann tómann. En mannástin knúði hann áfram. Hann vildi lyfta upp þessum bræðrum sínum og systrum; hann vildi útrýma hræsninni og lyginni; hann vildi gefa mönnunum veglegri hugmynd um guð, en þeir höfðu. Þeir hugsuðu sér guð, sem austrlenskan harðstjóra, en hann vildi sýna þeim hann sem elskulegan föðr. Hann hefir lengi verið í vafa um, hvað hann skyldi gjöra. Stundum hefir honum fundist það ómögulegt að framkvæma þetta. Hann hefir hugsað, að þó að hann vekti upp nokkra, þó að hann fengi fáeina til að opna augun fyrir hræsninni og villunni, þá mundi alt sækja í hið sama aftr. Honum hefr fundist það vera frekjufult af sér, fátækum og umkomulitlum, að ætla sér að verða guðs sendiboði til þjóðar sinnar, ætla sér að taka sér svona mikið verk. En svo hefir hann farið að hlusta á Jóhannes Essena trúboðann. Þeir höfðu buddhistiskar skoðanir og prédikuðu mikið um spillingu heimsins. Hann hefir orðið snortinn af af hinum eldlega ákafa Jóhannesar, hinum stranga og vandaða lifnaði trúbræðra hans Essenanna. Sumar sögur segja að Kristr hafi jafnvel gengið í trúflokk þeirra. En hvað sem því líðr, þá er það mjög líklegt að þeir hafi haft mikil áhrif á hann; hann lætr skíra sig og, ef að vér lítum á það réttum augum, þá var engin meining í því fyrir hann að gjöra það, að láta skírast, nema einmitt sú, að með því gekk hann í flokk þeirra, eins og t. d. Baptistar og aðrir flokkar skíra þá, sem ganga í flokk þeirra. Og það er eins og hann styrktist við þessa athöfn, það er eins og eitthvert eldlegt afl guðs Anda hafi hrifið hann. Honum finnst hann vera hinn útvaldi guðs. Honum finnst hann vera kjörinn til þess að prédika hátt og snjalt á móti öllum villum, móti hræsni og lygi, móti kúgun og harðstjórn, prédika um föðrinn, um hinn óendanlega kærleika hans, um hans óútgrundanlegu náð, um dýrðina og hátignina himnaföðursins. En enn þá er hann þó í vafa. Það koma efaköst að honum. Hann fer út í eyðimörku og hugsar þar lengi og vandlega, eins og flestir aðrir trúarhöfundar hafa gjört. Hann sá fyrir alla erfiðleikana, allar ofsóknirnar alt vanþakklætið og loks dauða sinn á einn eðr annan hátt. En mannást hans má meira hann ræðr það af, að ganga út í það, að fórna lífi sínu til þess að boða þjóð sinni hreinni og fullkomnari og kærleiksríkari guðshugmynd. Hann ræðr af að boða það fátækum, vesælum, voluðum, höltum og blindum, að guð sé þeirra elskulegr faðir, þeir þurfi ekki að óttast

hann, því að þeir séu börnin hans og að þeir skuli ekki örvænta yfir þrautunum og þjáningunum, því að þessi faðir þeirra sé réttlátr, og muni vissulega launa þeim og umbuna þeim og bæta upp allar þeirra hörmungar, þerra öll þeirra tár. Þetta var fagnaðarboðskaprinn sem hann kallaði sjálfr. Fyrir þenna boðskap ætlaði hann að lifa og deyja. Þetta er maðrinn, sem vér höldum hátíð þessa í minningu um.

Hinir rétttrúuðu bræðr vorir verða hrifnir af yfirnáttúrlegum undraverkum, af englasöngnum, af syndlausum getnaði, yfirnáttúrlegum ómögulegum eftir lögum náttúrunnar. Þeir stara á undrabarnið, sem ekki var maðr heldr, guð, þó ekki guð heldr maðr; en vér horfum á manninn Krist, unitarann Krist, frelsishetjuna Krist, á manninn, sem, gæddr ágætis hæfilegleikum, velr sér hlutskifti það, að reyna að hugga hina hreldu, hughreysta hina ístöðulitlu, að boða mannkyninu hið lifandi frelsisins, jafnréttarins og fagnaðarins orð; og það þó að hann vissi, að það stóð í hans valdi með hæfileikum þeim, er hann hafði, að verða mikill höfðingi meðal þjóðar sinnar, þjóðar sinnar, sem hann elskaði svo heitt og innilega.

Föðrland hans hafði mist frelsi sitt, og lutu Gyðingar yfirráðum annarar þjóðar. Oftsinnis höfðu þeir reynt að brjóta okið af herðum sér; þeir höfðu háð blóðugar styrjaldir undir Makkabeunum, en alt kom fyrir ekki. Rómverjar brutu þá undir sig, þeir settust að í höllum hinna fornu konunga Gyðinganna. Það sauð í þjóðinni undir hinni útlendu kúgun; það þurfti ekki nema lítinn neista til þess að hleypa öllu í logandi bál. Fólkið beið vonarfult, eftir Messíasi þeim, sem spámennirnir höfðu lofað þeim að skyldi frelsa þá frá yfirráðum óvina þeirra. Ef að Kristr hefði gripið það tækifæri og sagst vera Messías, þá hefðu þúsundir þyrpst utanum hann, þeir hefðu undireins gjört hann að konungi sínum og hafið stríð á móti Rómverjum. Þeir hötuðu Rómverja af öllu hjarta Gyðingar, það var enginn efi á því. Hefði því Kristr notað þetta hatr, notað þessa löngun hjá þeim að brjótast undan oki Rómverja og fá sinn eigin konung, þá hefði honum verið hægt að verða það, og maðr með jafnmiklum hæfilegleikum og Kristr var ekki einungis líklegr til að gjöra þetta, heldr jafnvel að leggja undir veldi sitt aðrar þjóðir. Þetta hefir verið freisting fyrir Krist því það er mjög líklegt, að hann hafi séð þetta alt saman; en það var um leið gagnstætt öllu eðli hans. Hann hataði allar blóðsúthellingar, en þetta útheimti að blóðið rynni í elfum, það hlaut að leiða af

sér synd og tár og veinan, hrellingar og harmkvæli, og það var svo algjörlega mótstæðilegt hinni elskulegu sál Jesú Krists. Hann vildi eyða öllum hörmum, þerra öll tár,. Hann vildi vekja byltingu ekki á móti Rómverjum, ekki stjórnarbylting, heldr andlega byltingu á móti heimsku og eigingirni, hræsni og lygi og harðýðgi og grimd. En þeir, sem það hafa viljað gjöra hafa æfinlega átt örðugt uppdráttar, það eru ekki nema sárfáir, sem skilja þá, og enn þá færri, sem hafa mannskap í sér að fylgja þeim og styðja þá, og svo var um Krist, lýðrinn vildi ekki fylgja honum, prestarnir ofsóttu hann.

Þeir sögðu, að hann kæmi með nýjungar, þeir sögðu, að hann kæmi í nafni satans og fólkið trúði því; mentunin var ekki á háu stigi, þeir sögðu að hann guðlastaði og gjörðu það að dauðasök. Hann prédikaði og kenndi og læknaði, hvar sem hann fór, og lækningar hans drógu marga að honum að hlýða á hann, erfiðismanninn, sem talaði svona fagrlega, þenna óbreytta mann, sem kom fram, ekki í neinum dýrðlegum skrúða, heldr klæddr í búning erfiðismanna, og prédikaði um guðs náð og eilífan kærleika. Þeir voru þessu óvanir, þeir höfðu vanist því, að heyra prédikað um hinn réttláta guð, hinn stranga dómara, sem heimtaði tönn fyrir tönn og auga fyrir auga, sem hegndi sálu syndarans með eilífum kvölum, en minna um kærleika föðrsins og þó að nú séu því nær 1900 ár síðan, þá er þó æði líkt ástatt í þessu efni nú og þá.

Það var annað, sem athugavert var, en það var það, að Kristr gjörði sér engan mannamun; mennirnir voru allir bræðr hans og systur, hvort sem þeir voru háir eða lágir, Grikkir eðr Gyðingar, syndugir menn eða syndlausir. Þetta þótti prestunum hneyksli hið mesta, því þeir gjörðu sér mannamun, þeir saurguðust, ef að þeir snertu við syndaranum. Það var jafnréttrinn, sem Kristr hélt fram og því hefir hann af sumum verið kallaðr heimsins fyrsti Sósíalisti. Hann þoldi ekki, hann gat ekki vitað af neinni kúgun, hverju nafni sem nefndist. Mennirnir voru allir jafnnaktir, þegar þeir komu í heiminn, gröfin gjörði jafnt undir höfði konunginum, sem þrælnum eðr ambáttinni, og svo voru það einkum þeir, sem voru undirokaðir og kúgaðir, sem stóðu næst hjarta hans.

Þjóðin þessi sem hann elskaði, sem hann einkum vildi hjálpa, var orðin huglaus, af undangengnum óförum, fátæk, fáfróð, hjátúarfull, trúði á hindrvitni og hégiljur, prestarnir höfðu

vald yfir henni, hún var í klóm þeirra, þeir læstu um hana klóm sínum, enn þá meira, en þeir læsa klóm sínum um þjóðir á vorum dögum, enn þá meira, en þeir læsa klóm sínum um oss Íslendinga á þessum tímum, þótt þeir læsi þeim furðu fast. Hvernig átti hann að bjarga henni þessari þjóð? Ófrið vildi hann ekki hefja, enda hefir ætlað að það yrði, ef til vill, ekki nema stundar friðr; að bæta prestastéttina sá hann, að var ómögulegt; að menta þjóðina hefði verið tafsamt verk, enda þurft langa tíma til þess, þar sem enginn vissi neitt og Gyðingar aldrei nein menta þjóð. En eitthvað varð að gjöra og öðrum eins vitring og öðrum eins mannþekkjara og Kristi duldist ekki, hvað það var. Það var að gefa þjóðinni eitthvað að horfa á, sem eyddi heiftinni og grimdinni, hræsninni og lyginni. Það var að gefa henni málverk, sem hún einlægt gæti haft fyrir augum, og þetta málverk þurfti að vera svo fagurt og elskulegt, að hún gæti ekki haft augun af því. Þetta málverk átti gjörsamlega, að breyta henni, gjöra hana friðsama, sáttfúsa, kærleiksríka, sannleikselskandi, láta hana hata hræsni og lygi, en elska alt hið góða, sanna og fagra. Þetta málverk festi hann upp í hjörtum lærisveina sinna, það var hugmyndin um hinn hreina, heilaga og kærleiksríka guð. Prestarnir höfðu alt annað málverk af honum. Hann var konungrinn, hinn strangi dómari, hinn refsandi guð. Kristr hefir eflaust séð þann sannleika, ag þjóðirnar eru eftir því sem hugmyndir þeirra eru um guð. Ef að hann því vildi bæta þjóðina, þá þurfti hann að bæta guðshugmyndina, annars mundu allar tilraunir árangrslausar. Aðalstríð hans var því við prestana og svo við deyfð og doða og hugsunarleysi alþýðu. Og það hefði verið alveg það sama, ef að Kristr hefði komið nú á vorum dögum. Aðalstríð hans hefði orðið við prestana. Hann hefði orðið heitr á móti þeim, hann hefði hrópað: „vei! vei! yðr þér hræsnarar, sem kennið alþýðu alt aðrar kenningar en þér trúið sjálfir, vei yðr þér eitrormar og nöðrukyn, hvernig getið þér umflúið helvítis dóm“. Og prestarnir ofsóttu hann þá, og þeir myndu ofsækja hann nú og kalla hann guðníðing, af því að hann sýndi þeim fyllri og betri mynd af guði, en þeir þektu eða kendu.

Ég vil benda yðr á það kæru vinir og biðja yðr að taka eftir því þessu, ráði sem kristr hafði til að lyfta þjóð sinni, til að lyfta mannkyninu upp á æðra stig, það var þetta að sýna þeim þessa

mynd af guði, hún átti að draga þá upp, draga þá upp úr syndinni og spillingunni, draga þá upp úr hræsninni og lyginni, draga þá upp úr hálfvelgjunni og doðanum. Gyðingar forköstuðu henni þessari kenningu, en það sá Kristr ekki fyrir, en hinar vestrænu þjóðir tóku við henni og þó fjarska afbakaðri. Því þær gjörðu Krist að guði, sem hann aldrei hafði tilætlast, þær héldu hinum gömlu harðstjóra hugmyndum um guð, þær fyllta upp með alskonar hégiljum, englum, hindrvitnum og kraftaverkum utan um þessa háleitu og fögru mynd og saurgaði hana með því og spiltu henni. Það er enginn efi á því, að Kristr var unitari að því leyti, að hann trúði á einn guð. Það er ekki hægt að finna nokkurn staf sem sanni hið gagnstæða, það er bara uppspuni af klerkum, ósanninda uppspuni, að hann hafi kent annað. En hitt er og víst að hann, eins og Gyðingar þá, trúði á víti, ef að vér eigum að taka trúanleg orð postulanna. Enda er það og vel skiljanlegt, að þó að hann hafi haft svona skarpa sjón á því, hvað mundi bæta mannkynið, þá var hinsvegar mjög líklegt að hann að meiru eðr minna leyti væri flæktr í barnatrú sinni. Vér vitum það, sem höfum reynt það, að það er ekki svo auðvelt að losa sig frá henni. Kristr var Gyðingr alinn upp og fræddr í trúbrögðum Gyðinga. Það var því ekki furða nein, þó að hann gæti ekki fyllilega losað sig við hinar gömlu hugmyndir; en að hann hafi reynt það, sýnir myndin af guði, sem hann dróg upp fyrir heiminum, myndin af honum sem elskulegum föðr.

Það sést bæði á háttum hans og kenningum, að hann hefir skoðað sig kominn, ekki til að kenna hina gömlu trú, heldr til að breyta henni. Hann segir sjálfr, að hann sé kominn til að fullkomna lögmálið, en eftir því hefir hann ekki getað verið neinn bókstafstrúmaðr. Hann rífr helgi Sabbatsins með því, að tína öx á þeim degi. En Sabbatinn var í mjög mikilli helgi hjá Gyðingum. Það var dagrsem þeir trúðu, að guð hefði hvílt sig á eftir sköpunina, það var sjöundi dagrinn, laugardagrinn okkar. Þeir lögðu þungar sektir við ef verk voru unnin á þeim degi. Ef maðr fór að skemta sér á hestbaki t. d. þá var það dauðasök. Kristi var illa við þesskonar kreddr og því brýtr hann á móti þeim til þess, að staðfesta kenningu sína með því.

Hann gekk óskelfdr fram, þó að hann sæi hvað fyrir sér lægi; því að það mátti líka ganga að því vísu, þegar prestar hötuðu hann eins og þeir gjörðu. Hann barðist fyrir sannleikann, kallaði

sig konung sannleikans og fyrir sannleikann vildi hann lífið láta. Það er eftirtektavert það, eftirtektavert um alla mannkynssöguna og það á við eins í dag og fyrir 2000 árum, að hvenær, sem menn koma og vilja segja alþýðu það, sem satt er, þá rís hún upp á aftrfótunum, ber með klaufunum og segir: burt með hann, burt með hann, hann fer með lygar og guðlast. Hann er ekki í húsum hæfr, vér viljum ekki heyra hvað hann segir og svo stinga menn upp í eyrun. En aðrir sjá að þetta er satt þeir hafa svo mikið vit, að þeir sjá það, en þeir vilja ekki koma nærri, þeir vilja ekki leggja neitt í sölurnar fyrir sannleikann. Þeir sjá hræsnina og lygina í kringum sig en vilja ekki lyfta fingri sínum til þess, að greiða flækjuna; þeir hugsa sér, að þeir hafi enga skyldu við sannleikann; en mér getr ekki annað fundist, en að þeirra sök sé miklu þyngri en hinna, sem ekki hafa svo þroskað vit, að þeir sjái sannleikann. Kæru vinir! vér minnumst nú hetjunnar, mannvinarins, sannleiksfurstans Jesú Krists, fyrir göfgi sálar hans, fyrir ósegjanlega mannást hans, fyrir blessunarríka kenning hans, fyrir mynd þá, hreina og elskulega, sem hann dróg upp af himnaföðurnum svo að vér gætum haft hana fyrir augum og lagað hugsunarhátt og lifnað vorn eftir henni, vér minnumst hans, unitarans, hins dyggðaríka manns, sem gaf oss dæmi til að breyta eftir, vér minnumst hans fullir þakklætis fyrir starf hans, fyrir kenningu hans, fyrir dauða hans. En vér höldum minningu hans best í heiðri með því að líkja eftir honum, með því að kasta hræsninni og lyginni, með því að kasta deyfðinni og dóðanum og afskiftaleysinu, með því að berjast fyrir sannleikanum, með því að hjálpa til að mála upp þessa mynd íhjörtum samferðamanna vorra, mynd, sem sé svo hrein, að hún hreinsi hjörtu þeirra og líferni, mynd, sem dragi þá frá syndinni og spillingunni, mynd, sem huggi þá í hörmungum og raunum, mynd sem dragi þá upp á við á strengjum kærleikans, myndina af föðrnum himneska, sem elskar öll börn sín, og hefir fyrirbúið þeim öllum stað, ekki í neinu afgrynni, heldr í ljóssins bústöðum. Ég veit þér skiljið það vinir mínir vér höldum hátíð Krists best og bæði sjálfum oss og öðrum til heilla með því, að einsetja oss nú að vinna fyrir sannleikann og kærleikann eins og Kristr, kasta doðanum og deyfðinni og afskiftaleysinu og fara að taka til starfa. Ég er sannfærðr um það, og Kristr er ekki Kristr, ef að hann ekki leggr blessun sína af himnum ofan yfir hvern þann, sem tekr sér þann ásetning.

Sumum kann nú að finnast það lítilfjörlegt þetta, að það skuli hafa verið lífsstarf Krists og ekki meira að mála upp þessa fyrri mynd af guði í hjörtum manna, að sýna mönnum fullkomnari guðshugmynd, en mér finnst það ekki lítið. Dauði hans endrleysir engan, kraftaverk, væru þau nokkr til, gætu aldrei hjálpað nokkurri sálu, yfirnáttúrlegr getnaðr ekki heldr, auk þess, sem alt þetta væri lýti á guði. En það að Kristr sá þetta sýnir einmitt hve guðdómlegir voru hæfileikar hans, þessa manns og vér, sem getum litið yfir söguna í ein 4000 ár, sjáum, að þetta er eina ráðið að leiða þjóðirnar til guðs. Skáldin sjá það, listamennirnir sjá það og vér viljum ekki halda því leyndu fyrir alþýðu.

Fram því kæru vinir og vinnum með Kristi, í hans anda, hans nafni og leiðum sem flesta til guðs með þessu móti. Þökkum föður vorum fyrir hann þenna bróðr vorn, fyrir staðfestu hans, hugrekki og þolgæði, aldrei hefir jafn göfug sála lifað á jörðunni sem hann. Reynum að skilja hann rétt. Hann stendr fyrir heiminum sem leiðarsteinn. Fylgjum þeirri stefnu, sem hann sýndi oss. Vinnum meðan dagr er, nóttin kemr þá enginn getr unnið, Hjálpa þú oss faðir til að feta í fótspor hans, til að lyfta samferðamönnum vorum einni tröppu ofar en þeir standa á nú, amen í Jesú nafni amen.

---

# 100
# ritningarstaðir, er sanna Unitaratrú.

[Þýtt].

—:o:—

XXV. Hann segist „tala eins og Faðirinn hafi kent sér" Jóh. 8. 28. Hann þurfti þá að læra af föðurnum.

XXVI. Hann segir, að af því að hann sé maðr (eðr mannsins son), hafi faðirinn þurft að gefa sér myndugleika.

„Því eins og Faðirinn hefir lífið í sjálfum sér, svo gaf hann og syninum, að hafa lífið í sjálfum sér, og hann hefir og gefið honum vald til að halda dóm, því hann er mannsins son" Jóh. 5. 26. og 27.

XXVII. Hann játar, að hann í öllu sé Föðurnum undirgefinn. „Sonurinn getur ekkert af sjálfum sér, nema það, sem hann sér Föðrinn gjöra Jóh. 5. 19, og Faðirinn elskar soninn og sýnir honum alt, sem hann sjálfur gjörir" Jóh. 5. 20.

XXVIII. Hann segir: „Eg leita ekki neins heiðurs, heldur heiðra eg Föður minn" Jóh. 8. 49. 50.

XXIX. „Ef eg heiðra sjálfan mig, þá er mín vegsemd ekkert, Faðirinn, sem þér kallið yðar Guð, hann er sá, sem vegsamar mig", Jóh. 8. 54. Af því að kristr skoðaði sjálfan sig aðeins sem mann, þá áleit hann það hégóma einn at sér, ef að hann færi að vegsama sjálfan sig. Hitt var annað, að hann, maðrinn, vonaðist eftir velþóknun guðs á gjörðum sínum.

XXX. Postulinn segir: „Það þóknaðist Guði, að öll fylling skyldi búa í honum". Kól. 1. 19.

XXXI. Kristr er ekki skoðaðr, sem hið fyrsta skilyrði sáluhjálparinnar, eðr tilveru vorrar, heldr aðeins hið næsta á eftir guði.

„Vér höfum ekki nema einn Guð, Föðurinn, frá hverjum alt er og vér honum til (dýrðar) og einn Drottinn Jesúm Krist, fyrir hvern alt er vér einnig". 1. Kor. 8. 6.

# Kaupið „Dagsbrún"! Lesið „Dagsbrún"! Borgið „Dagsbrún"!

Háttvirtu kaupendr!

Leyfið oss að ávarpa yðr með nokkrum línum í þessu fyrsta nr. „Dbr." á 3ja aldurs-ári hennar.

Vér erum mjög ánægðir yfir því, hvað „Dbr." hefir átt að sæta góðum viðtökum á meðal hins íslenska þjóðflokks vors hér vestra, og jafnframt gleðr það oss að heyra, að hún sé lesin með stakri eftirtekt hvervetna þangað sem hún er send. Vér erum ánægðir yfir því — vér endrtökum það aftr—hvað landar vorir hér vestra uppfylla vel þessi tvö fyrstu skilyrði fyrir viðgangi blaðsins, — en, aftr hikum vér oss ekki við að láta undrun vora í ljósi yfir því, hvað menn eru TREGIR TIL að uppfylla 3ja skilyrðið, sem framtíð blaðsins hvílir þó á, og sem er þetta:

## Borgið „Dagsbrún" í tíma.

Öllum kaupendum „Dbr." hlýtr að vera það ljóst, að framtíð blaðsins hvílir á þessum eina grundvelli.

Ef hinir heiðruðu kaupendr blaðsins standa jafnilla í skilum við oss með andvirði þess eftirleiðis, sem hingað til, er engin von til að „Dbr." haldi áfram, en hún fellr við góðan orðstíl — því hún fellr af því sári, sem hennar eigin fylgismenn veita henni, er standa í vanskilum.

Nei! kæru kaupendr látið ekki slíkt viðgangast að þér myrðið sjálfir yðar eigið málgagn, sem kappkostar að útbreiða yðar eigin frjáls-hugsandi skoðun. Látið oss ekki bregðast að þér sýnið oss einhvern lit á að borga og það bráðlega. Kaupendr „Dbr." geta borgað andvirði hennar til þessara útsölumanna vorra:

*Í Dakota, til hra. Björns Halldórssonar, Mountain;*
*" " " " B. S. Jósafatssonar, Pembina;*
*" " " " John Stephanson, Hallson;*
*Í Minneota, til hra. G. S. Sigurðssonar;*
*" Winnipeg, til séra M. J. Skaptasonar,* 572 *Alexander Ave.;*
*Í Selkirk, til hra. Guðmundar Finnssonar;*
*" Q'Appelle nýl., til hra. Guðm. Ólafssonar, Dongola P. O.;*
*Í Alberta nýl., til hra. Stephans G. Stephanssonar, Tindastóll P.O.;*
*Í Ný-Ísl.andi, til hra. St. Friðbjörnssonar, Hecla P.O.;*
*" " " " Pétrs Bjarnasonar, Ísafold P.O.;*
*" " " " Jóh. Vigfússonar, Icelandic River P.O.;*
*" " " " Sig. J. Vidal, Hnausa P.O.;*
*" " " " Gunnars Gíslasonar, Arnes P.O.*

— Í ritstjórnargrein einni í blaðinu: „Chicago Times“ um hina nýfundnu sýrlensku þýðing i guðspjallanna segir meðal annars: „Margt er þar frábrugðið hinum gömlu guðspjöllum vorum og meðal annars þetta: 1. kap. Matt. 16. vess er þar á þessa leið: „Jakob gat Jóseph; Jóseph, sem meyjan María var lofuð, gat Jesúm”.

2. vessið er þannig: „Hún skal fæða þér son”, og vessin 24. og 25. eru þannig: „Og hann tók konu sína til sín, og hún fæddi honum son og hann kallaði hann Jesúm”.

Það getr hver maðr séð, að hér er algjörlega neitað yfirnáttúrlegum getnaði Krists og því merkilegra er þetta, ef svo er, sem margir vísindamenn ætla, að þetta sé hið elsta handrit guðspjallanna, sem menn enn hafa fundið.

Hvernig fara klerkar að snúa sig út úr þessu?

---

BORGAÐ „DAGSBRÚN“.

Boston, Mass.— Rev. Edward C. Guild. [2 eint.] [III.]
Churchbridge, Assa.— Hjálmar Hjálmarsson. [III.]

---



---

Útsölumenn SUNNANFARA í Vestrheimi eru:
Sigfús Bergmann, Garðar, N.D.; G. S. Sigurðsson, Minneota, Minn., og Bóksala G. M. Thompson. —— —— Gimli, Man.

---


G. M. Thompson hefir á hendi alla afgreiðslu á Dagsbrún og annast fjármál hennar. Kaupendr snúi sér því til hans, bæði með pantanir og borganir


---

Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún“ skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson

---

"DAGSBRÚN“ kemr út að minsta kosti einu sinni í mánuði.

| | |
|---|---|
| Árgangrinn kostar í Vestrheimi | $1,00 |
| Sendr til Íslands en borgaðr hér | $0,75 |
| Sendr til Íslands en borgaðr þar | Kr. 2,00 |

—— Verð árgangsins greiðist hvervetna fyrir fram. ——
Skrifstofa blaðsins er hjá
Magn. J. Skaptason, 572 Alexander Ave., Winnipeg, Man. Canada.

---

Ritstjóri: Magn. J. Skaptason.

---

Prentsmiðja G. M. Thompson.